# Fáein Ord

um

## Uppruna og Utbreidslu

þeirra svo kölludu

## Biblíu-Félaga.



Kaupmannahöfn.
Prentad hiá þorsteini E. Rangel,
1815.

Svo sem þad er eilíft líf, ad þeckja einn sannann Gud, og þann hann útsendi heiminum til Endurlausnara Jesum Christ, svo verdur þeckíng þessi hvörgi tryggiligar uppausin, enn af brunni heilagrar Ritníngar, er vér Biblíu nefnum; þessvegna bar sjálfur Gud svo mikla umsorgun fyrir, ad hún í fyrstu yrdi í rit færd, af mönnum þeim, med hvörjum hans Andi yfirnáttúrliga verkadi, svo manneskjur mættu sig óhult á þeirra ord og kénníngu reida, sér til sáluhjálpar. O hvílík velgjörd hins lifanda Guds er þad þá, ad þessi hin heilagasta og allradyrmætasta bók undir sólunni verdi sem allra flestum af mankyninu kunnug, og komist í þeirra höndur!

Allt fram um þann tíma sem Endurbót Trúarbragdanna hófst hér í Nordur-

hálfunni, hafdi þessi blessada Bók, verid í allt of fárra höndum, þar hún undir Páfadómsins myrkrum var fyrirmunud mönnunum til upplýsíngar; sídan hefur hún smámsaman æ betur og betur útbreidst, þó einasta medal Christinna; en Heidíngjum og ödrum lítt- edur ó-upplystum þjódum hefur hún, svo ad segja, aldeilis hulin verid, og jafnvel almúgi sjálfra þeirra Christnu hefur einnig helst til oflítid haft af þessari heil. Bók sín á medal. Nú er sá tími kominn — lofadur veri Gud! — ad margar christnar þjódir hafa sameinad sig til þess stóra augnamids, ad útbreida Biblíuna, vídt og breidt um heimsbygdina, ecki einasta medal Christinna, heldur og svo medal Tyrkja og Heidíngja. O ad hennar tala mætti þá margfaldast þúsund-þúsund sinnum í heiminum, svo hin rétta þecking Guds og hans eingétins Sonar Jesu Christs, yrdi sem flestra, já allra manneskja hlutskipti!

Med hvorsu ósegjanliga glódu, audmjúku og þacklætisfullu hjarta ber þá hvörjum sem einum Christnum manni móti þessari himnesku Bók ad taka, og hana sér trúliga í nyt færa, med ydug-

ligri og andagtugri yfirvegun, til eilífrar velferdar; þar einasta ad eiga Bók þessa, en bruka ecki, fordæmir framar enn frelsar. En öllum sönnum Guds og Biblíunnar Elskendum á Islandi, til verdugrar gledi, leidist hér fyrir sjónir

ein stutt, en svo greinilig, sem verdur,

# Skyrsla

yfir

þess nafnfræga Biblíu-Félags Uppruna og addáanligu Utbreidslu í heiminum.

---

## Uppruninn er þessi:

Arid 1804 var sá hinn fyrsti stofn til Félags þessa lagdur í Höfudborginni Lundún á Englandi, af Prestum og ödrum sannleikans vinum, er fyrst tóku sér nærri Biblíunnar skort hjá almúganum þar innan ríkis; en allt í frá þeim tíma fór Félag þetta svo í vöxt æ meir og meir ad menn loksins áformudu þess útbreidslu svo vídt og breidt um heimsbygdina sem möguligt yrdi, gjörvöllu mannkyni til

nota. Innan þess Engelska veldis teljast nú ecki færri enn 484 þesshátter Félög, smærri og stærri, sem þó öll stoda til Adal-Félagsins eblíngar og útbreidslu.

En hve furdanligt Félag þetta vaxid hafi, sjest ljósast af því, ad útgiftir þess edur tilkostnadur til ad prenta og útbreida Biblíuna, hljóp hid fyrsta ár ad eins til 27 hundrud speciu ríkisdala rúmliga; en 10 árum sídar vóru þær ordnar meir enn hundradfaldar; því árid 1814 hlupu þær til 338 þúsunda 608 sp. ríkisdala.

Þessu dæmi hinnar Engelsku Þjódar, fylgdu sídan strags á eptir margar adrar hér í Nordurhálfunni, hvörjum þó hid Engelska Upprunna-Biblíu-Félag tilleggur flestum merkiligann penínga styrk, til eblíngar hinna, þeirra á medal, stiptudu Biblíu-Félaga. En hvad snertir

## Utbreidslu

þessa Félags, svo vel í Englandi sjálfu, sem í ödrum heimsins hálfum og löndum, sjest af eptirfylgjandi fíordri útskyríngu:

## Europa.

I. England, sem ádur er sagt, edur þad Engelska Biblíu-Félag; þad hefur

á eiginn kostnad utgèfid og prenta látid heil. Ritníngu í fylgjandi heimsins túngumálum; nefniliga: í Engelsku, Welsku, Fjalla-scotlendsku, Irsku, Mönsku, Frönsku, Spönsku, Portugalisku, Italienisku, Hollendsku, Dönsku, þydsku, Islendsku, Lapplendsku, Tyrknesku, Grísku (bædi þeirri fornu og núbrúkanliga), Arabisku, Esqvimauxisku, Mohawisku, Ethiopisku edur Blálendsku; Svo, yfir höfud, hafa á þess Engelska Biblíu-Félags kostnad verid útgéfnar rúm 540 þúsund Biblíur og nú fyrir víst yfir 760 þúsund Ny-testament.

Hér ad auki hefur Félag þetta styrkt til útgáfu Biblíunnar svo mörg önnur Bibliu-Félag i ödrum Löndum, ad hún er nú, fyrir þess medverkun, prentud og útgéfin i Fimmtíu og Fimm heimsins bædi höfud tungumálum og tungumála adgreiníngum.

II. Þydskaland og Schweitz; þar eru frá árinu 1804 inntil þessara tíma stiptud Biblíu-Félög í stödunum, Basel, Berlin, Zurich, Königsberg, Pressburg, Stuttgard, Halle, Chur,

Schaffhausen, Sti. Gall, Elberfeld, Hannover, Dresden, Erfurt, Lubeck, Dantzig, Lausanne og Geneve; öll þessi Félög hafa prentad og útgéfid meir enn 59 þúsund Biblíur og 22 þúsund Nytestament.

III. Holland; vegna Strídsins hafa Christinndóms- og Biblíu-vinir í því Landi ecki gétad med sameinudum kröptum verkad til Biblíunnar útgáfu fyrenn árid 1814; En ad þeirra elska til Guds opinberada ords hafi þó ecki í minsta máta þverrad, vottast ljóst þar af, at nú um eins árs tíma hafa þeir uppreyst sín á milli ecki færri enn 33 Biblíu-Félög; til dæmis í stödunum Amsterdam, Rotterdam, Haag, Utrecht, Harleem, Leyden, Dordt, Assen, Grönningen, Delft, Middelburg, Hoorn, Breda, Deventer or mörgum fleiri.

IV. Danmörk; í Höfudstadnum Kaupmannahöfn er, undir Konúngl. allranádigustu Vernd, stofnsett eitt danskt Biblíu-Felag árid 1814.

V. Svíaríki og Norvegur; þar eru í Höfudstadnum Stockhólm, og stöd-

unum Gotenborg, Westerås og Gotlandsey, allareidu sidan 1809 stiptud Biblíu-Félög, undir Konungl. Forsvari.

VI. Russland; þar er fyrst í stadnum Abo í Finnlandi stofnad Biblíu-Félag 1812; sídan 1813 í sjálfum Höfudstadnum Petursborg, undir Hans Keysaraligu Hátignar allranádugustu Vernd og Forsvari, var uppreist eitt mikilvægt Biblíu-Félag, til hvörs uppreysnar sjálfur Keysarinn gaf þá stórfurstaligu Gáfu 25 þúsund Rublur edur herumbil 8 þúsund Speciur í einu, og heitir Felaginu árliga til adstodar og eblíngar 10 þúsund Rublum edur meir enn 3 þúsund Sp. Rdl.

Ut af þessu Félagi hafa sprottid innan sama Ríkis, Biblíu-Félögin í stödunum: Moschov, Dorpat, Mittav, Riga, Revell, Yaroslaff, Ösel, Woronege og Kamenetz-Podolsk. Þessi Biblíu-Félag hafa á hendur tekist ad prenta heil Ritníngu i 13 eptirfylgjandi túngumálum: Calmukisku, Armenisku, Finnsku, Þydsku, Polsku, Fröusku, Schlavonisku, Dorpatisku,

Revelsku, Lettisku, Persisku, Georgisku og Samogetanisku; svo ad í Russlandi eru edur væntast prentud ecki færri enn 95 þúsund Biblíur og 103 þúsund Nytestament.

## Asia.

I þessari austurhálfu heimsins eru edur verda stofnud, um þessar mundir: 1) eitt Biblíu-Felag í Calcutta, sem hófst 1811, og sem lætur prenta útgáfur Biblíunnar í fylgjandi Austurhálfunnar túngumálum, nl. Bengalisku, Hindostanisku, Tamulsku, Orissisku, Malayisku, Malayamisku, Mahrattisku, Sanscritisku, Persisku, Arabisku, Cingalesisku, Sinhala-palisku, Telingisku, Chinesisku, Sikisku, Siamesisku, Carnatisku, Bugisku, Burmanisku, Macassarisku, Maldivisku, Balochisku, Afganisku, Rakhengisku, Turcomanisku og Armenisku. 2) þad Ceyloniska i Colombo. 3) þad Bombayiska. 4) þad javaniska í Batavia og: 5) í China er ein viss serdeilislig Utlegging Nya T. gjörd af Sira Robert Morrison, hvaraf 2000 eru prentud.

Hér fyrir utan er í Calcutta stofnud ein Bókhlada, sem inniheldur til sölu Biblíur í öllum heimsins túngumálum.

## Africa,

Edur Sudurhálfa Heimsins; þar eru og svo stiptud Biblíu-Félög í Eyløndunum Mauritius og Bourbon og St. Helena; og loksins

## America,

Þad er Vesturhálfan; hún hefur nú allareidu fengid yfir 80 Biblíu-Félög, sem képpast vid at útbreida heilaga Ritníngu medal Innbyggjara heimsins í þeirri hálfu.

Nú skal allra sídarst minnast á þig, þú kjæra Island! Þú hefur og svo uppskorid af þessari mikilvægu Biblíu-Félaga stiptun einn blessnnar-ríkann ávöxt. I Sameiníngu med einu evangelisku Félagi á Fjóni i Danmörku, hefur þad Engelska Biblíu-Félag látid prenta árid 1807 handa þér 5 þúsund Ny-testament; og aptur 1813 hefur þad sama Engelska B. F. sorgad fyrir útgáfu 5 þúsund Biblíu-bóka og 5

þúsund Ny-Testamenta, og látid útdeila fyrir medalgaungu eins sins Medlims Prestsins E. Hendersonar, sem til þessa augnamids tókst á hendur einu reisu til þín, sumu héraf géfins, sumu med réttu gjafverdi, í þessari tíd. Fyrir hvörja Himinsins velgjörd, einn þinn verdugi Sonur Presturin Sr. Jon Þorlakson á Bægisá hefur í þínu nafni, framlagt eitt opinbert þacklæti til hins Engelska B. F., med eptirfylgjandi Qvædi;

## Til
## Þess Engelska Bibliu-Félags
### frá Islandi.

Þú Kristsverdugi Félagsflockur!
Forskulldar meir enn annar nockur
At nefnast þannig nú á ölld!
Rödulskiær þinn sig reisti liómi,
Þá ríki myrkra Kristindómi
Ögra lét nærri komid qvölld.

Englanna Kóngur út þig sendi,
Englar komnir frá Drottins hendi
Hans þér safnadar styrkid stand,
Og honum smyrjid holla þegna
Hédanaf giörist ydar vegna
England sannkallat Englaland.

Þá vorir skiædu villu-fiendur
Vöktu Ritníngar fóttrodendur,
Þér Englar risud þeim í gégn;
I kiærleiks anda samansvarnir,
Sannleikans til ad efla varnir,
Ei huga spördud, aud né megn.

Fádæma-kiærleiks fegurd slíka
Frá Ydur streyma sér eg líka
Allt nordur hingat yfir mig
Ein, þar himi, kend vid klaka,
I köllduın mar, sem eins og iaka
I kríngum Island sveigir sig.

Fætur engelskra fridar-boda
Fornar Postula brautir troda,
Utsendir líkt um allann heim;
Siá þeir hugprúdu sannleiks vinir
Sitt líf ei spara meir en hinir,
Einn til mín kominn er af þeim.

Gudliga stiórn eg þarí þecki
þess er eg dyrka, en sé þó ecki;
Mín svo berliga minnist hann!
O! skylda'g þannig áhrærd sofa,
Iskölldum fánginn sinnisdofa
Velgiörning eigi þacka þann!

Mammon og Judas mundu syta
Mikil gialldspell, og þang álíta
Eins og án þarfar útsóud,
Sem kostat hafit kiærleiks vegna,
Krists til at smyria ríkis þegna
Og eingi reiknar utan Gud.

Mergd af Guds orda megin-hirdslum,
Mörg þúsund, full af andar smyrslum,
Hvervetna færast kér um kríng;
Heilög ritníng til hiálpar sálum,
I hvörskyns landa túngumálum,
Utbytist fróns um heilann hríng.

Hvad má gódgyrni gudlig heita
Géfins ef eigi slíka ad veita
Guds helgidóma gnægd af aud,
Og med giafverdi sumpart selia,
Svo at ókeypis jafnt má telia
Heiminum útdeilt himnabraud.

Er því iardneskum ávinníngi
Ærit fiarstædt, at hértil þvíngi
Ydar himinlynd hiörtu sá;
Heldur þúsundfaldt honum ædra,
Heidur Drottins og velferd brædra
Vakti med Ydur verkun þá.

Háleitt félag! til heidurs Gudi
Helgat, og frama Krists söfnudi,
Gott verk hefir þú giört á mér!
Þess skal eg iafnan vottur vera
Og verdug heidurs teikn frambera
Þarum, eins fyrir hæd og hér.

Þó hraustir kappar hrósi sigri,
Hrak er á móti tignarligri
Gudræknis athöfn þinni þad;
Hennar not, laun og heidur vara
Heims yfir serhvörn maktar skara
Hér og á ödrum hærra stad.

I mínu nafni og minna barna
Med þessum ordum vil eg giarna
Þakklæti giallda þér og prís;
O! at vér mættum eins vel nióta,
Til allra heilla og sálarbóta,
Þinnar giafar sem þú oss kys!

Ölldrud kona med falldi og felldi
Fannhvítum undir Nordra Velldi,
Gardarsey stirdann gél og Od;
Opt þad sem mínir kundar qváda,
Konúngar fordum milldir þádu,
þiggid og Fédur! — þessi liód.

Engla Jöfur sem himni og heimi
Med hátign styrir, Ydur geymi!
Hans blessun Ydur stydji sterk!
Sú er mín ó.k af heitu hiarta,
Hér og sídar at meigi skarta
Umbun hans gód fyrir Ydar verk.

þann 10da Julii 1815.

Ad sídustu má þess hér géta ad á Sudurlandi Islands er allareidu lagdur Grundvöllur til stiptunar eins Islendsks Biblíu-Félags, sem, fyrir þess inngengnu háttmetnu Medlima tilstudlun, vonast ad útbreidi sig innan skams um þad heila Land.

---

Adurnefndur Prestur E. Henderson, notar sér þetta tækifæri, ad láta öllum Islands Innbyggjurum í ljósi, sitt kiærleiksfyllsta þacklæti fyrir sér audsynda mannelsku og adstod, hvarhelst sem hann umreisti, og eins ómöguligt sem hann vidurkennir sér sé ad gleyma slíkum kjærleiks audsyníngum frá þeirra sidu, eins mikilvæga skyldu sina álítur hann og játar, ad bidia til Himinsins, um ríkugligt endurgiald líkamligrar og andligrar blessanar yfir þá allasaman, svo lengi sem Gud lætur þetta Land búi og bygdum hallda, og ad sú heilaga Ritníng mætti verda þeim og þeirra nidjum einn stadfastur vegvísari til eins betra lífs!